# Avisan

um

# Húsblas Tilreidslu,

útdregin
af Hra. Júſtitsráds
H. F. Mullers
Agripi,
í ens konúnglega íslendſka Lærdóms-Liſta
Félags Rita XI. Bindini,

og

útgefin af 

H. W. Koefoed:
Sýslumanni í Kjósar- og Hieradsdómara í
Gullbríngu-Sýslu.

---

Leirárgørdum, 1807.
Prentud á koſtnad Islands konúngl. Landsupp-
frædíngar Stiptunar og Utgefarans,
af Faktóri og Bókþryckiara G. J. Schagfiord.



Hid konúnglega Rentukammer sendi mér, árid 1789, lítid Sýnishorn af því Húsblasi, er verkad hafdi verid á Islandi, og beiddist jafnframt míns Urskurdar um þess Gædi, med hverju Móti þad kynni betur ad tilreidast, og ad eg vildi gefa fullkomna Avísun um þess besta Verkunar Máta.

Til ad audsýna hér í skylduga Hlýdni, hefi eg þá fyrst samanborid þad íslendska Húsblas vid þær 2 Tegundir af því, sem er almennast, og hér ad fá til Kaups, kostar 1 Pund af hinni betri $3\frac{1}{2}$ Rdl, en af þeirri lakari $1\frac{1}{2}$ Rdl. Cúrant. Vid þenna Samburd merkta eg, ad $\frac{1}{4}$ af því íslendska Húsblasi, uppleysist í Vatni, hvarámót sú betri Húsblas-Tegund, er vér hefum, uppleysist ad öllu í Vatni, og $\frac{3}{4}$ ennar lakari; hvaraf aud-

aud-

audsært er, ad í því íslendska er Seigjan lángtum minni, sem þó er þesskonar Líms hellsti Eginnlegleiki. Þetta íslendska Húsblas er móraudt ad Lit og ecki dann-gott, er án Efa orsakast af ótilbærilegri Medferd. Ad Límveran er í því svo lítil, kémur, ad minni Meiníngu, af því, ad annadhvört hefir þad, í öndverdri Tilreidslu, verid oftengi útbleytt í Vatni, edur lagt annarstadar svo lángann Tíma óvidhrært, ad vid Rotnun hefir legid ádur enn tilreidt var, edur og kannské skolad í volgu Vatni, og sídan oftengi þurkad, hvaraf Límid er burtu þvælt ad mestu, edur tapad sinni upphaflegu Vern og Eginnlegleika, sem hellst er fyrir ad óttast, ef Húsblas-efninu liggur vid ad rotna. Hid góda Húsblas er hvítt ad Lit, og nær því gagnsært, en orsök til þess mórauda Litar, er hid íslendska Húsblas hefir, hygg eg sé þessi: ad þad er ecki svo vel hreinsad sem vera ber í fyrstu, þegar þad er tekid úr Fiskinum, né þad Kjöt, Blódædar og Fitukyrtlar, sem þá vid þad loda, nóglega afreittir, verdur Húsblasid af því móleitt og daunslæmt, sem hvörttveggja eru Eginnleikar þess íslendska, er eg fékk til prófunar, en vort Húsblas hefir hvörigann þeirra.

Jafn-

Jafnvel þó eg nú einkis væri fúsari, enn að fullnægja Beiðni ens konúnglega Rentukammers í því, að géfa Islendíngum fullnóga Avísun, um þann besta Tilreiðslu-máta Húsblasins, er eg samt ecki orðinn þess vís, að nockuð sérílagi eða til Hlýtar sé þar um skráð að undanförnu, því það lítið, sem mér er fremur ljóst í þessu Efni, hefi eg einúngis af Hendíngu numið af munnlegu Viðtali þeirra, er að eins hafa séð hvörnig Húsblas er tilbúið; samt sem áður er eg þó þeirrar Vonar, að ef Islendíngum, er reyna til að gjöra Húsblas, væri géfin Avísan um Orsakir þær, sem áður eru taldar, og vegna hvörra það Húsblas er þeir tilreidt hafa, vanti þá nauðsynlegu Seigju eður Límveru, og sé svo døckleitt og dauníllt, þá mundi þeim kannské verða það nockur Leiðarvísir til betri Aðferðar í Húsblasins Tilreiðslu. A því ríður þá fyrst og fremst, að þeckja þær Fiska-tegundir, er Efnið géfa best til Húsblasins, og hafa Menn þá fundið, að það eru þessi eptirfylgjandi Styrju-kyn: 1) Accipenser sturio. 2) — Ruthenus L. 3) — Huso L. 4) — stellatus. Þaráмót eru cyprinus balbus og gadus lota hvergi nærri svo þénanlegar

til ad fá Húsblas af, þvi hvørki er þad svo hollt ne Seigjumikid sem þad, er tilbúid verdur úr hinum fyrrtøldu Fiski tegundum.

Adferdin, ad tilreida Húsblas, er nærfellt þessi: þá Fiskurinn er veiddur, skal hann slægjast og úr honum takast Efni þad, sem Húsblas verdur af gjørt; er þad aflángur Belgur einn eda Bladra, sem kallast Sundmagi, og liggur hann uppi vid Dálkinn í millum Himna tveggja, sem eins eru bádar ad Skapnadi. Af þessum Belg skal svo vel hreinsa, sem best verdur, allar Himnur, Kjøt, Mør og Fitu, skal þá einnig þad Hýdi, sem liggur yfir Belginum, sprettast upp med Hnífsoddi eda Fíngur-neglum, og fletta því af sídan, en ádur þetta skér, skal þó Belgurinn, med øllu því, er vid hann lodir, þvælast vel og kreistast í køldu, tærhreinu Vatni, svo Blód og ønnur Óhreinindi skolist af honum. Þvotturinn vari sem skémst, því hætt er annars vid, ad Límveran burtþvælist, liggi Belgurinn oflengi í Vatni. Því nærst skal fletta Belginum í sundur og leggja hann á Fjøl, er vott Lérept sé ádur yfir breidt, skal þá ad svo búnu skafa Himnur allar og Hýdi af honum, einnig Fitu alla og

Blód.

Blódædar er vid hann loda; þó verdur þetta ad gjøra í Forsælu edur inni Húsum, hvar engi Varmi er, og med hinni náqvæmustu Varfærni, svo eckert af sjálfu Húsblasinu fari til Spillis. Ad sídustu skal taka Belg þenna, sem nú er hreinskafinn, af Fjølinni, vefja hann fast saman, ásamt því vota Lérepti, innaní Prjónasaum edur annad Lodklædi, svo stórt, ad þerrad fái Vætu þá alla og Fitu, sem enn þá er eptir í Belginum. Prjónasaumurinn edur Lodklædid skal vera hvítt ad Lit, og bædi vel hreint og fullþurrt, svo enginn Olitur edur Saurindi nái ad setjast á Húsblasid. Nú þegar Belgurinn er þannig sveipadur innaní Léreps og Lodklædis Reifana, skal sídan leggja hann undir Farg, sem Rússar gjøra sér af 2 flotum Tréstyckjum, og bera Grjót á ofan svo mikid, ad úr Húsblasinu þar vid kreistist øll Væta og Vilsa sem best verdur. Þetta Farg á strax ad gjøra þegar búid er ad skola Belginn og skafa, og á medan hvørttveggja er enn þá deigt, bædi hann og Léreptid. Þegar nú Belgurinn hefir legid undir Fargi, er Léreptid strax tekid utanaf honum, og hann þá samanvafdur í sivalann Strånga; sumir herda hann í smám Skifum,

en

en það er þó sjaldnar, þvíað í Hólkar-løgun gengur Húsblasið optast að Kaupum og Sølum. Í þessu Skøpulagi er það dregið á Þráð, og hengt síðan til Þerris í Forsælu, þar sem mikill er Súgur, að það gæti harðnað sem fljótast*).

Héraf er þá auðsært, að til þess að gæta verkað gott, hvítt og þeflaust Húsblas, útheimtist fyrst og fremst, að Tilreiðslunni sé bæði fljótt og hreinlega afkastað, og því næst, að Húsblasið sé til Þerris hengt, hvar Vindur og Súgur leika frítt á, en Elds-
hiti

*) Sá frá enu konúnglega Landbústjórnar Felagi út-gefni Verdlauna Lísti, fyrir Árið 1806, inniheldur líka þenna Máta: af þeim, eptir framantjeðum Hætti, meðhøndlaða Sundmaga, tilreiðist Húsblas undir 2 Formum (fløtum Trestyckjum), Belgurinn leggst á millum hreinna votra Klæða svo lengi við Sól, uns hann verður svo mjúkur, að auðveldlega lætur sig samanvefja í sívalann Strånga, sem ann-aðhvørt er bundinn saman á Endunum, eður og á stundum myndast með Lægð í Miðjunni, svo að hann verður í Løgun sem Hjarta. Að því búnu eru báðir Endarnir dregnir uppá Snúru eina, á hvørri þesshåttar Húsblas-strångar hengjast upp til Þerris, hvað engannveginn má skje við Sólar-þurk, þar Húsblasið annars springur.

hiti og Sólar fær ecki adkomist. Pad lætur einnig ad Likindum, ad Belgur pessi verdi og ad hreinsast innantil, en pó má pad ecki gjora, fyrr enn Himnur allar, samt Fita, Kjøt og Blódædar eru utanaf honum plockadar; en pared Belgur pessi er, ad Meiníngu minni, hin svo kallada Sundbladra, svo er hann, án Efa, hreinn ad øllu innantil, munu pví náqvæmari Tilraunir og egin Reynsla géfa pá bestu Avîsun um, hvørt Innanhreinsun pessi er naudsynleg edur ecki.

Pessi eru loksins Merki á gódu Húsblasi: ad pad er hvítt, hálf-gagnsært, lyktarlaust og uppleysist med øllu í Vatni. Purfi Vatnid ad sjóda yfir Eldi ádur enn pad géti Húsblasid upleyst, er pad Merki til ad Húsblasid hefir verid vel purkad. Pegar pad er barid, sem opt skér, til pess ad pad leysist brádar upp í Vatni, pá er góda Húsblasid rákótt tilsýndar; pegar skorid er af pví med Hnífi, er pad seigt fyrir og glært í Sárid.

